# ÆFI-ÁGRIP

OG

# ÚTFARARMINNING

# JÓNS MATTHÍASSONAR

frá 1822 til 1856 prests að Arnarbæli í Ölfusi, er andaðist að Hjarðarholti í Laxárdal 8. okt. 1859.

GEFIÐ ÚT AÐ TILHLUTUN OG Á KOSTNAÐ EKKJU HANS OG ERFINGJA.





REYKJAVÍK 1860.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.

EINAR ÞÓRÐARSON.

# I.

# ÆFIÁGRIP.

Eptir ministerialbók Ögurs- og Eyrar prestakalls í Ísafjarðarsýslu er eg, Jón Matthíasson, fæddur í þennan heim að Eyri við Seyðisfjörð 4. d. maímánaðar (Florianus) 1786 og skírður skemmri skírn s. d. af móðurmóður minni mad. Rannveigu Sigurðardóttur sýslumanns á Hvítárvöllum, Jónssonar, Sigurðssonar lögmanns á Einarsnesi; skírnin var staðfest í Ögurkirkju 4. d. júnímán. (Optatus) sama ár, af þáverandi sóknarpresti þar, sèra Teiti Jónssyni biskups, Teitssonar, Pálssonar prests að Eyri við Skutulsfjörð.

Faðir minn var studiosus theologiæ Matthías Þórðarson, Ólafssonar, Jónssonar á Eyri við Seyðisfjörð; var Ólafur lögsagnari, lögrèttumaður og merkismaður, faðir þeirra mörgu systkina: Jóns vícelögmanns, Ólafs sekretèra, Þórðar stúdents í Vigur (afa míns), Sigurðar í Ögri, Magnúsar í Súðavík, Árna prests í Gufudal (afa stiptprófasts Árna Helgasonar), Solveigar, húsfrú Jóns prests Sigurðssonar í Holti í Önundarfirði, og Íngibjargar húsfrú Jóns prests Sigurðssonar á Rafnseyri; er mikill ættleggur af þeim

kominn og margir merkismenn, er nú lifa. Kona Ólafs lögsagnara var Guðrún Árnadóttir prests Jónssonar á Hvítadal, og Ingibjargar Magnúsdóttur, Jónssonar lögmanns, og dó hún á Eyri hjá foreldrum mínum árið 1785. En kona þórðar stúdents Ólafssonar í Vigur, og móðir föður míns Matthíasar var Margrèt Eiríksdóttir prests á Hrepphólum, Oddssonar á Fitjum, en móðir Margrètar var Guðrún Daðadóttir prests Halldórssonar í Steinholti. Margrèt var merkileg kona og læknir góður.

Móðir mín var Rannveig Guðlaugsdóttir prófasts Sveinssonar í Vatnsfirði, prests til Staðar á Snæfjallaströnd 1756, Kirkjubóls í Langadal 1766, og að síðustu Vatnsfjarðar 1780, hvar hann andaðist 1807, er hann hafði verið sóknarprestur í 51 og prófastur í 34 ár; hafði hann útskrifast úr Skálholtsskóla 16 vetra og verið þar eptir skrifari hjá Sigurði sýslumanni á Hvítárvöllum. Sèra Guðlaugur var fluggáfaður maður og vel lærður, hollur læknir, gestrisinn og höfðingi í sjón og reynd; kenndi hann fjölda pilta undir skóla, er síðar urðu embættismenn. Faðir hans var Sveinn Guðlaugsson, er síðast var prestur að Hvammi í Norðurárdal, en móðir hans Helga Jónsdóttir prests Jónssonar að Staðastað; hún giptist Sveini presti, sem sèra Jón hafði upp alið, og komið til mennta, blind, og var þó kölluð hinn bezti kvennkostur. Móður Rannveigar Guðlaugsdóttur og hennar ættfólks hef eg þegar áður getið.

Faðir minn Matthías þórðarson fæddist í Vigur 1753, og ólst upp hjá foreldrum sínum, hverra þegar

er getið; fèkk hann þegar í æsku fyrstu þekkingu á skólalærdómi, einkum latínu, hjá sèra Guðlaugi prófasti í Vatnsfirði, og kom honum það síðan að góðu haldi, var hann svo settur í Skálholtsskóla, dvaldi þar 6 vetur og útskrifaðist þaðan 1773, tvítugur að aldri af skólameistara Mag. Bjarna Jónssyni með góðu mannorði bæði fyrir siðferði og lærdóm, einkum hvað latínu áhrærði, sem og fyrir framúrskarandi fjör og fimleik. Eg heyrði sjálfur hinn mikla merkismann, þorvald prófast Böðvarsson, minnast þannig Matthíasar sál., sem nú var sagt og ávallt til hins bezta — þeir voru skólabræður 1—2 vetur —; líka hef eg sèð og lesið skóla-testimonium föður míns (sem nú er mèr horfið), með eigin hendi meistara Bjarna; vottaði það hið hèrsagða. Nokkur ár þar eptir var Matthías í Vigur hjá föður sínum þórði, — móðir hans Margrèt var þá dáin — uns hann gekk að eiga jómfrú Rannveigu Guðlaugsdóttur, sem þá var komin að Kirkjubóli í Langadal, til foreldra sinna Guðlaugs prófasts og Rannveigar Sigurðardóttur; var hún fædd, að því mèr er ljósast, á Hvítárvöllum árið 1754, og ólst upp á Setbergi hjá prófasti sèra Erlendi Vigfússyni og móðursystur sinni þóru Sigurðardóttur, konu hans, uns hún fór til foreldra sinna að Kirkjubóli; var Rannveig yngri talin bezti kvennkostur á Vestfjörðum. Hvert ár það var, er þau giptust, veit eg ekki með vissu, þó eg ætli það hafi verið 1776—77.

þessi hin ungu hjón Matthías og Rannveig reistu bú á Eyri við Seyðisfjörð, hvar lengi og vel búið

höfðu höfðingshjónin Ólafur og Guðrún, afi og amma Matthíasar, þau er áður hefur verið getið. Búnaðist hinum ungu hjónum þar mæta vel og sýndu hvervetna manndáð, rausn og skörungsskap; varð þeim þriggja barna auðið, sem eptir lifðu, er faðir þeirra sálaðist:

1. Ólafur, fæddur 1778. Hann var 2 vetur við lærdóm í heimaskóla hjá sèra Jóni Sigurðssyni á Rafnseyri, sem giptur var Ingibjörgu Ólafsdóttur, systur afa okkar systkina, barna Matthíasar, en hann hætti við lærdóm, þegar faðir okkar dó. Ólafur giptist síðar Helgu, dóttur Jóns prófasts Ásgeirssonar á Holti í Önundarfirði, Bjarnasonar, seinast prests í Mýraþingum og Þorkötlu Magnúsdóttur prófasts Snæbjarnarsonar á Söndum. Þau Ólafur og Helga áttu 3 dætur: Arnfríði, Þorkötlu og Rannveigu, af hverjum 2 giptust og áttu börn. Ólafur drukknaði og með honum 8 menn í marzmánuði 1830 fyrir Þórðarkambi eða á Skálavík í Ísafjarðarsýslu; hann var merkilegur og hugljúfi. Í árbókum Espólíns 12. b. bls. 172 mun ofhermt um börn Ólafs, því hann átti ekki fleiri á lífi, en hèr segir.

2. Rannveig, fædd 1779, giptist Ásgeiri prófasti Jónssyni í Holti, bróður Helgu, konu Ólafs. Þeirra börn: a) Jón prestur á Álptamýri, giptur Guðrúnu Guðmundsdóttur frá Auðkúlu í Arnarfirði; þau eiga börn. b) Matthías, hreppstjóri, fjörmaður mikill og farmaður, góður og vel að sèr um margt, giptur Kristínu Gunnlaugsdóttur prests frá Rípi, Magnússonar prests frá Höskuldsstöðum; þau eiga tvo

syni, hann einn fleiri, Ólaf. c) Matthildur, gipt Magnúsi presti í Ögurþingum Þórðarsyni; þau eiga mörg börn og vaxin. d) Þorkatla, er átti Vigfús smið Eiríksson prests á Stað í Súgandafirði Vigfússonar. e) Magnús, seinast kaupmaður í Hafnarfirði, átti Friðriku Steenbach og börn með henni. f) Ásgeir, kaupmaður á Ísafirði, giptur Michelínu Eyjólfsdóttur prests Kolbeinssonar; eiga börn. g) Halldóra, gipt og á börn. h) Hjalti, dó ungur. Ásgeir prófastur varð fyrst aðstoðarprestur föður síns prófasts sèra Jóns og eptir hann settur prófastur í Ísafjarðarsýslu vesturhluta, síðan prestur að Brjámslæk og prófastur í Barðastrandarsýslu, síðast að Holti í Önundarfirði 1822 og prófastur þar s. á. Hann drukknaði í svo nefndum Holtsvaðli 1835 og hörmuðu hann margir, var honum margt vel gefið.

3. Jón, sem þetta skrifar og hèr segir frá.

Þann 30. jan. 1793 sálaðist minn elskuverði faðir Matthías á sóttarsæng, fertugur að aldri, er hann hafði legið sjúkur í rúma viku, var eg þá á 7. aldurs ári. Mèr er enn minnisstæður harmur móður minnar, sem sá sig þá svipta yndi og aðstoð, er hún sat grátandi með mig í fángi sínu og jók það hennar sorg, að við systkin grètum svo mikið. Hætti þá Ólafur bróðir minn skólalærdóms iðkunum og lagði hug á búsýslu og atorku til aðstoðar móður okkar, sem hèlt við búskap í ekkjustandi mörg ár þar eptir, uns hún giptist aptur Kristjáni Guðmundssyni frá Arnardal árið 1805 og var eg þá kominn í Reykjavíkurskóla. Kristján varð síðar hreppstjóri og danne-

hrogsmaður, vel metinn og höfðingja ígildi. þeim hjónum varð ekki barna auðið, en bjuggu í Vigur til dauðadags. Móðir mín sálaðist 9. d. ágústm. 1831, en Kristján giptist þá þegar aptur Önnu Ebenezersdóttur sýslumanns í Hjarðardal, þorsteinssonar. Hèr er ekki rúm til að herma, hvernig arfaskipti framfóru eptir móður mína undir afskiptum Kristjáns, en stjórn Ebenezers sýslumanns tengdaföður hans. Eg vík því sögunni til mín sjálfs.

Eg ólst þá upp hjá minni góðu móður lengst á bænum Fæti í Seyðisfirði, hvar hún bjó, uns eg var sendur í Reykjavíkurskóla. Veturnar 1799—1800 og 1800—1801 var eg hjá afa mínum sèra Guðlaugi prófasti í Vatnsfirði ásamt 4 öðrum lærisveinum, nefnil: Torfa Magnússyni, nú presti til Kirkjubóls í Langadal, Guðlaugi Sveinbjarnarsyni, presti til Hvamms í Norðurárdal, dóttursyni prófastsins, Jens Jónssyni, Arnórssonar sýslumanns, sem dó ungur, orðinn kapellán til Kirkjubóls, og Jóni Sigurðssyni presti til Sanda í Dýrafirði, sonarsyni afa míns sèra Guðlaugs; lærði eg þá ásamt þessum lærisveinum svo nefndar »artes«, og lítið meir í latínu.

Haustið 1801 var eg sendur í Reykjavíkurskóla, ærið skammt kominn í skólalærdómi og bláfátækur, og dvaldi eg þar næstu 3 vetur; fyrsta veturinn undir kennslu Jóhanns sál. Árnasonar biskups þórarinssonar, sem þá var »proconrector«; en tvo síðari veturna kenndi mèr og neðribekkingum sèra Hjört-

ur Jónsson, síðar prestur til Gilsbakka, er þá var í »conrectors« stað.

Á sumrum var eg hjá assessor, síðar amtmanni Stephensen á Hvanneyri; lagði hann mèr til það, sem eg að eins gat lifað af á veturna, en tók sjálfur ölmusu mína, sem var 24 rd., og þoldi eg þá sult og seyru, sem fleiri af mínum fátæku skólabræðrum. Veturinn 1804—1805 var ekki skóli haldinn, fór eg þá um haustið vestur að Arnardal í Ísafjarðarsýslu, því móðir mín hafði brugðið búi og var þar húskona; þar var eg um veturinn til sjóróðra, en lærði lítið, nema hvað eg gat hjálpað mèr sjálfur tilsagnarlaust með fáum bókum; fór eg svo aptur suður og vann á Hvanneyri um sumarið, var mèr þá fjör og kraptur svo aukinn, að eg þurfti ekki sökum skorts á líkams þroska að vera öðrum háður. Sama haust 1805 var skólinn fluttur að Bessastöðum; og flestir þeir skólapiltar, sem verið höfðu í Reykjavíkurskóla, þangað kallaðir, og ný umbreyting til batnaðar gjörð, sem lærdóm, hús og viðurværi áhrærði, var það allt miklu betra og hollara en í Reykjavíkurskóla. Var eg þá eptir fárra daga próf í skólalærdómi svo heppinn, að eg komst í efsta bekk, því þá voru 3 bekkir í skólanum, var sá efsti kallaður: »classis selecta«. Eptir 2 vetur þar, var eg af efsta lærriföður, Lector theologiæ, síðar biskupi, herra Steingrími Jónssyni útskrifaður vorið 1807 með vitnisburðinum »Laudabilis«, sem »Testi-

monium« mitt gjör sýnir[1]. Þessa mina 2 síðustu skólavetur, kenndu oss skólapiltum þessir: 1. háttnefndur herra biskup Steingrímur Jónsson. 2. Jón Jónsson frá Görðum, síðar Lector theologiæ. 3.

---

1) Testimonium sèra Jóns er svo hljóðandi:

Jonas Matthiae filius anno 1784 in villa Eyra apud Seidisfiord in toparchia Isfiordensi, patre theologiæ candidato Matthia Thordi filio, matre vero Rannveiga Gudlogi filia natus, per sex annos publica in scholis, partim Reykvicana, partim Bessastadensi usus est informatione, ingenium habet sat felix judiciumqve acumine non destitutum, animo alacer, moribus non inhonestus, solertia in literis laudabili tantos fecit progressus, ut juxta ultimi, qvod sustinuit, examinis publici censuram:

| | |
|---|---|
| in stylo latino<br>hebraica analysi<br>stylo islandico<br>lingva danica intelligenda<br>stylo danico<br>doctrina religionis et morum<br>Novi Foederis exegesi<br>Geographia &<br>arithmetica | Laudem |
| in latinis autoribus enucleandis<br>Græcorum autor. interpretatione<br>et historia universali | mediocrem<br>Laudem |

nansciseretur; Biblicum exinde enucleatum thema pro sacris rostris decenti declamatione pronuntiavit. Juxta Regii igitur edicti d. 22. Martii 1805 de dimissorum maturitate præscriptas regulas, laudatum bonæ spei adolescentem, inter prosperrima qvævis vota, legitima dimissione cohonestare nulli dubitamus.

Dabam Lambhusis d. 2. Junii 1807.

Steingrimus Jonæus.

Lector theologiæ.

(L. S.)

Guttormur Pálsson, síðar prestur að Vallanesi og prófastur í Múlaþingi, og minnist eg allra þessara minna skólameistara með þakklæti og virðingu. 2 næstu árin, eptir að eg var útskrifaður úr skóla, leitaði eg míns brauðs í sveita míns andlitis, átti heimili í Vigur á Ísafirði og byrjaði lítið búhokur 1808 ógiptur.

Arið 1809 var eg kallaður af þá nývorðnum sóknarpresti til Vatnsfjarðar, síðar stiptprófasti Árna Helgasyni til að verða kapellán hans þar, því hann gat ekki komið þangað sjálfur og kom þangað heldur aldrei til veru. Var eg prestvígður 16. júlí s. á. af Geir biskupi Vídalín, gegndi svo í Vatnsfirði öllum prestsverkum og stóð fyrir stað og kirkju í 2 ár, skilaði þeim svo í fardögum 1811 Arnóri prófasti Jónssyni, sem varð eptirmaður sèra Árna; hafði eg þessi ár hlynnt að bæjarhúsum staðarins og bætt þau. Næsta ár bjó eg sem bóndi á kirkjujörðinni Hálshúsum í Vatnsfjarðarsveit.

Árið 1812 var mèr 17. d. marzmán. veitt Staðarprestakall í Aðalvík og flutti eg þangað sama vor. Við úttekt kirkju og staðar í fardögum s. á. fyrirfannst hvorttveggja gjörfallið, öll bæjarhúsin af fúa og vatnságangi, en af bláfátækri ekkju var ekkert að fá í ofanálag. Með vilja og vitund hèraðsprófastsins sèra Hákonar Jónssonar, sem þá var sóknarprestur á Eyri við Skutulsfjörð, skrifaði eg hèr um stiptsyfirvöldunum og leitaði styrks til uppbyggingar staðarins, sem allan með bæjarhúsum þurfti að færa og byggja upp á ný á öðrum stað. Eg fèkk neit-

andi svar upp á að fá styrk til að flytja og uppbyggja staðinn, en áfýsingu að taka starfa þennan á hendur með loforði um meðmælingu og frama, ef eg gæti þetta vel af hendi leyst. Byrjaði eg nú þegar að afla og að mèr að draga byggingarefni, eptir sem mèr var unnt. Kirkjuna reisti eg og byggði í sama stað, hvar hún áður stóð; en að reisa bæ að nýju fannst mèr næstum ómögulegt, fátækum manni, sem þá var orðinn konu og börnum bundinn, í harðindaárum þeim, er þá voru frá 1813 til 1816, sem margir nú lifandi menn enn til muna, ekki sízt á 8 rd. brauði, á harðindakjálka landsins, Hornströndum. Eg árèði samt að leggja grundvöll til nýrra bæjarhúsa og afla þar til þess, er með þurfti. Með mikilli áreynslu, hættuferðum og 1228 ríkisdala kostnaði gat eg loks fyrir guðs mildi og aðstoð þetta til lykta leitt 1816, sem ljósast má sjá af skoðunargjörð prófasts, sýslumanns og tveggja merkismanna að Stað í Aðalvík 10. júlí 1816. Eg segi þetta ekki nè skrifa mèr til hróss eða ágætis, heldur til að tjá og sýna rök til þess, að forlögin leiddu mig hingað að Arnarbæli.

1817 29. d. maímán. var mèr veitt prestakallið Eyri við Skutulsfjörð eptir prófast sèra Hákon Jónsson, sem dó í febrúarmánuði s. á.; hans er getið hèr að framan. Þar hef eg bezt unað hag mínum; flutti eg þangað samsumars, en hafði líka á hendi kirkju og stað og prestsþjónustu í Aðalvík til fardaga 1818, þá eg skilaði því eptirmanni mínum og frænda sèra Guðlaugi Sveinbjarnarsyni, hvers áður

er getið, og var það ærið erfitt, sem þeir vita, er til þekkja.

Sama ár 1817 sókti eg til konungs um »Gratification« fyrir starfa minn í Aðalvík; kom svar þar upp á frá kansellíinu svo látandi: »vi har paalagt Stiftamtet at tage Sollicitanten i fortrinlig Betragtning til Befordring ved förste forefaldende Leilighed, til et af de bedre middelmaadige Præstekalde der i Landet«. þetta er sú önnur rót og orsök til þess, að eg nokkurn tíma kom til veru að Arnarbæli, því margt eða flest lèk mèr í lyndi á Eyri.

1821, hinn 6. aprílmán. var mèr veitt Arnarbæli í Ölfusi, svo eg lítið af vissi, flutti samt ekki þangað, fyr en seint í júnímánuði 1822, heldur var þann tíma kyrr á Eyri. Sèra Sigurður Sigurðsson, síðar prestur til Efriholtaþinga, aðstoðarprestur formanns míns sèra Sigurðar Íngimundssonar, gegndi fyrir mig prestsverkum, þangað til eg kom sjálfur.

Árið 1810, 29. d. maímán. giptist eg suður á Bessastöðum jómfrú Íngibjörgu Pálsdóttur prests Magnússonar seinast að Ofanleiti í Vestmannaeyjum og madömu Guðrúnar Hálfdánardóttur prests Gíslasonar að Eyvindarhólum; var eg gefin saman af stiptprófasti Markúsi Magnússyni.

þessi fagra mey (konan mín) var fædd á Ofanleiti í Vestmannaeyjum 22. d. febr. 1788, missti föður sinn á fyrsta aldursári, en móðir hennar giptist síðar Jóni Högnasyni, er var prestur til Ólafsvalla og síðan til Ofanleitis í Vestmannaeyjum; dóu þau hjón þar bæði. þegar Íngibjörg Pálsdóttir var

á 15. ári, fór hún sem þjónustustúlka í Skálholt til ekkjufrúar Valgerðar Jónsdóttur, var og í Lambhúsum hjá henni í 7 ár, uns hún gekk að eiga Jón prest Matthíasson, var þá frú Valgerður aptur gipt mínum ógleymanlega lærifööur og síðar biskupi Steingrími Jónssyni. Guð hefur blessað okkur hjón með 12 börnum, af hverjum 6 eru nú á lífi, er öll hafa hjá okkur uppalizt.

1. Páll, fæddur í Vatnsfirði 15. apr. 1811. Hann lærði í heimaskóla hjá stiptprófasti Árna Helgasyni, Bjarna Jónssyni, sem nú er »rector scholæ« og prófasti Þorvaldi Böðvarssyni, tók «examen publicum« og var útskrifaður 1832, þá á 21. ári; þar eptir var hann skrifari hjá sýslumanni, síðar konferenzráði Þórði Sveinbjarnarsyni, svo kapellán föður síns, sigldi til Kaupmannahafnar og gekk þar á presta-seminarium í nærfellt 2 ár, kom svo aptur til foreldra sinna og dvaldi þá hjá þeim um hríð. Honum voru veitt Skarðsþing 1846, Miklaholt 1854, en kom þar aldrei og svo Hjarðarholt í Laxárdal 1855. Hann giptist hjá foreldrum sínum 19. d. marzmán. 1847 Guðlaugu Þorsteinsdóttur, sem þá var helzta þjónustustúlka í Arnarbæli, ættaðri af góðum kynþætti undan Eyjafjöllum. Þeirra nú lifandi börn eru: a) Jón Guðmundur Þorsteinn, b) Jens Ólafur Páll, c) Íngibjörg.

2. Matthías, fæddur 6. júlí 1812 á Stað í Aðalvík; hann er nú verzlunar-forstjóri í Reykjavík, giptur 1835 Guðrúnu Steindórsdóttur stúdents og skipherra í Hafnarfirði; þeirra hjóna nú lifandi börn

eru: Jón, Steindór, Bjarni, Rannveig og Júlíana María.

3. Guðlaugur, fæddur 2. sept. 1815 að Stað í Aðalvík. Hann er nú hreppstjóri og sjálfseignarbóndi í Öxney á Breiðafirði, giptur 18. febr. 1836 frændsystur sinni Guðrúnu Grímsdóttur Pálssonar prófasts og prests til Helgafells. Börn þeirra, sem lifa, eru: Jóhann, Ingibjörg og Solveig.

4. Árni, fæddur 23. sept. 1819 á Eyri við Skutulsfjörð. Hann er verzlunarþjón (assistent) í Hafnarfirði, giptur Agnesi Steindórsdóttur, systur Guðrúnar, konu Matthíasar. Þeirra börn, sem lifa, eru: Anna, Íngibjörg, Jón, Jensína, Theódór.

5. Kristján, fæddur 11. jan. 1821 á Eyri við Skutulsfjörð, sjálfseignarbóndi og hreppstjóri á Hliði á Álptanesi, giptur Elizabeth Vigfúsdóttur, ættaðri frá Hrepp í Árnessýslu, merkiskonu. Þeirra börn, sem lifa, eru: Ragnheiður, Ingibjörg, María og Guðmundur samfeðra.

6. Guðrún, fædd 7. jan. 1817 að Stað í Aðalvík. Hún giptist 7. maimán. 1842 sjálfseignarbónda og merkismanni Jóni Jónssyni á Elliðavatni. Þeirra nú lifandi börn eru: Jón, Guðmundur, Jens Ólafur, Ingibjörg, Guðrún, Kristín, Sigríður, Rannveig og Grímur sammæðra.

Okkar hjóna nú lifandi barnabörn eru því 29, en mörg dáin. Eg minnist helzt með tilfinning og trega tveggja sona minna: Guðmundar, sem sálaðist 20. febr. 1843 í faðmi foreldra sinna í Arnarbæli 28 ára að aldri, og Jens Ólafs, sem dó í Kaupmanna-

höfn 1850, þá orðinn söðlasmiður, 20 ára gamall; voru þeir báðir hinir efnilegustu menn og hugljúfar; 4 börn okkar hjóna dóu ung.

Eg skrifa þetta ágrip jafnframt í því skyni, að ef einhver okkar hjóna borinn eða óborinn niður kynni að sjá það eður lesa, þá dagar og ár líða og eru liðin, að hann þá fái að vita, af hverjum kynþáttum hann er borinn og liðum kynþátta, sem nú eru liðnir, þó þeir, sem nú lifa aldnir, muni þá, ef til vill, flestir verða til hvíldar gengnir.

Á minni pílagríms prestsferð hef eg skírt 875 börn, fermt 473, gipt 143 hjón, jarðsungið 742 menn; verið húsbóndi í 50 ár, prestur í 49 ár, giptur einni konu 48, efri forlíkunarmaður 46 ár.

Híngað að Arnarbæli kom eg sjálfur með konu minni og 7 börnum okkar og fleiru fólki alfarinn frá mínu góða prestakalli Eyri við Skutulsfjörð seinast í júlímánuði 1822, svo sem áður er sagt.* Um

---

*) Kvæðið við burtför sèra Jóns Matthíassonar og mad. Ingibjargar Pálsdóttur frá Eyri við Skutulsfjörð að Arnarbæli í Ölfusi, sumarið 1822, af sýslumanni Jónsoníus.

1

Söknuður sár upp vaknar,
sèra Jón, þinn, úr kynni
mèr sem mörgum fleirum
munar, hverju skal una;
forlaga dragferli
fylgja hlýtur þú, lítið
við vini og vandabundna
viljugur þó skiljir.

2

Fylgi þèr fold og öldu
foreldra beztu óskorað
blóði og mægðum bæði
blendra þèr vina og kendra
saknandi kvaddra sókna
sèrhvers með, er tèðir
hugnað, allra heilla
hjartans óskir bjartar.

störf mín hèr í Arnarbæli ætla eg ekki að geta eða skrifa; þau sýna sig sjálf.

Haustið 1855 var eg leiddur til að taka kapellán

---

3.

Gleður oss opt, að eptir
ágætann róm þú lætur
embættis iðni rèttrar,
æ vísrar góðfýsi,
hrósverðra góðgjörða
gestrisni hvað mestrar,
öllum af alúð snjallri
auðsýndra, bjrgum, snauðum.

4.

Leiði þig, börn og brúði
blíðtrygg fyrr og síðar
hamingjan heillasömust
hvert spor á hnetti vorum;
leiði þig, börn og brúði
í blessunarkjörum hressum
himnaráði til heiðurs
hèr og í síns húss verum.

5.

Svo verið sæl, og farið
sæl til Arnarbælis!
svo komið, segi heimar,
sæl að Arnarbæli!
svo lifið sigurgefin,
sæl á Arnarbæli!
svo þó víkið, æ sènð
sæl, frá Arnarbæli!

2. Kveðið við sama tækifæri af Guðmundi Þorlákssyni.

1.

Hèr skein röðull í heiði klár, kjörinn ljómi kristindómi, næst afliðin nú 5 ár.

2.

Nú hèðan burtu frá oss fer, klerkur mætur, mjög ágætur, en minning dyggða eptir er.

3.

Söknuður því mitt særir geð, að sá burtvíkur, sómaríkur, velgjörðir mèr vísa rèð.

4.

Burtför og marga hryggir hans, sakna lengi mætti mengi síns ens kæra kennimanns.

5.

Hafandi jafnan hógvært geð, síns embættis sífellt gætti, kostgæfni enni mestu með.

Jón stúdent Björnsson frá Búrfelli, sem nú er orðinn prestur til Bergstaða og Bólstaðahlíðar í Húnavatnssýslu, og varð það tilefni til, að eg resigneraði vorið 1856, þar til líka orsakalaust af öðrum talinn, og veldur mèr það áhyggju og ærins fjártjóns og líklega þeim er ollu, ekki sætrar svölunar. Stað og kirkju svaraði eg í fardögum nokkru síðar s. á., hvar um eg ekkert skrifa.

Eptirmaður minn og ættbróðir, áður prófastur í Eyjafjarðarsýslu sèra Guðmundur Einarsson stúdents Jónssonar, Sigurðssonar prests á Rafnseyri, hvers áður er getið, fèkk Arnarbæli 1856, en kom hingað ekki til veru fyr en 1857; með honum hefi eg og kona mín dvalið næstliðið ár, og kann eg honum og hans góðu konu mad. Guðrúnu Pètursdóttur ásamt konu minni okkar beztu þakkir þar fyrir, því vel hefur með okkur öllum samizt.

Aðalvík fæddi mig; Eyri klæddi mig;

---

6.

Hann var uppbygging sinni sveit, í allan máta má það játa, hvereinn, sem hið sanna veit.

7.

Einnig gestrisinn alla við, hjálpþurfandi í hverju standi, fús að styrkja og leggja lið.

8.

Hans eptirmaður hèr kominn, óska eg heyri af fjölda fleiri, að sèr reynist eins og hinn.

9.

Allar lífsstundir óska eg því: farsæll lifi öldum yfir, fullsæll heimi öðrum í.

Arnarbælið mæddi mig. Lof sè guði fyrir liðna æfi, lengi hefur allvel gengið! hann blessi það, sem eptir er æfi minnar og alla mína í Jesú nafni!

Ritað að Arnarbæli í Ölfusi, í maímánuði 1858.
af
*Jóni Matthíassyni.*

# II.
# ÚTFARARMINNING.

Útför sèra Jóns framfór að Hjarðarholti 27. d. októbermán. 1859.

---

Sungið í líkstofu:

Sálmabók Nr. 222.

## 1.
## HÚSKVEÐJA.

haldin af sèra Guðmundi Einarssyni á Kvennabrekku.

---

Að vèr sífellt öflgir stríðum,
undir Jesu merkjum hèr,
góðrar stundar glaðir bíðum,
Guð vor, jafnan treystum þèr,
og við holdsins hverja þraut
horfum á þitt náðarskaut,
virðum dauðan vorn sem bróður:
veit oss þetta faðir góður! Amen.

---

Í hinni hjartnæmu skilnaðarræðu, sem drottinn vor og meistari Jesús Kristur hèlt til lærisveina sinna, standa, meðal annara, þessi markverðu orð: »Innan lítils tíma munuð þèr ekki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munuð þèr sjá mig aptur, því eg fer

til föðursins. (Jóh. 16, 16.) þessi orðin voru að vísu upphaflega ofvaxin skilningi lærisveinanna, og þegar þeir skildu þau, öfluðu þau þeim hryggðar, af því þeir vissu þá, að stund skilnaðarins var fyrir hendi, en sú hryggðin snèrist á síðan í fullan fögnuð, þegar þeir fengu að líta sinn upprisna drottin og meistara aptur, já, fengu innan lítils tíma að sameinast honum, og sjá hans dýrð augliti til auglitis.

Innan lítils tíma munuð þèr ekki sjá mig. þegar ástvinir vorir ávarpa oss þessum orðum, eða vèr lesum þau á yfirbragði þeirra, eða öðrum einkennum, sem aðför dauðans setur á þá, þá gagntakast einatt mannlegar tilfinningar af mikilli hryggð. Og þetta er eðlilegt. Hjartans viðkvæmnin getur ekki afborið söknuðinn, sem hrífur hana; þá er eins og málað sè á spjaldi fyrir sálarsjón vorri allur sá unaður, öll sú gleði, allt það gagn, er vèr höfum notið eða vonum eptir að njóta af ástvini vorum, sem liggur fyrir dauðanum, og vèr sjáum oss þessu rètt sem í vetfangi svipta. Ó dauði! þeir vita, sem reyna, að þinn broddur er hvass, og þín sigð sárbeitt fyrir hið holdlega manneðlið; og margt hjartað hefur þú sært dauðlegu sári. En er þá engin bót við slíku, má ekki verjast hinum djúpu holundum? Með guðs hjálp má það; því þegar broddur dauðans beinist að hjartanu, og á hann er stimplað: ástvinur þinn skal deyja; þá grípur hinn sannkristni skjöld trúarinnar og ber fyrir, og á hann er markað með geislum hinnar himnesku vonar: hann skal lifa, þó hann deyi; því að hann fer til föðursins, til hins

lifanda guðs, sem er hinn sami í gær, í dag, og að eilífu. — Vor himneski faðir er hinn alvitri kærleikurinn og hið kærleiksríka almættið, sem í sínum eingetna elskulega syni sætti mannkynið við sjálfan sig og sem af sinni föðurlegu mildi ákvarðaði, að þegar afl syndarinnar hreif manninn úr hans náðarfaðmi, þá skyldi hegning syndarinnar flytja manninn aptur á hans náðarskaut fyrir Jesúm Krist. Þó að það sè því sannkölluð sorgarstund, þegar dauðinn kallar ástvinina frá oss, og vèr fáum ekki lengur að njóta þeirra sýnilegu návista, þá fylgir henni samt nokkurskonar unaður, sem mikið kveður að. Það er sannarlegt unaðsefni, að horfa á það með hinni líkamlegu sjón, að dauðinn leysir ástvin vorn undan lífsins eymdum, böli, þrautum og þjáningum, og líta jafnframt til þess með sjón andans, að önd hans er frelsuð frá öllu ánauðaroki syndarinnar og flutt þangað, sem fullsælan ríkir. Það er enn fremur sannarlegt unaðsefni, að vita það, að sá, sem lengi hefir borið hita og þunga dagsins og saddur er orðinn lífdaganna, öðlast nú hina sárþráðu hvíld; að líta til baka á hið liðna líf hins framliðna, þegar það hefir verið guði þóknanlegt, mönnunum nytsamlegt, og hinum burtsofnaða til verðugs heiðurs og loflegrar minningar; að þakka drottni fyrir það, að honum þóknaðist að veita manni slíkan ástvin og jafnframt náð til að rækja skyldur sínar við hann af fremsta megni. Loks hressist hugurinn á hryggðarstundunni við þá ununarfullu vongleði, að vèr fáum að sjá ástvin vorn aptur í dýrðinni hjá hans og vor allra himn-

eska föður, og fljótt líði til slíkra fagnaðartíða, því að tímans hraðfleygi straumur beri oss, óðar en varir að lífsins takmarki, dauðanum, en dauðinn sè inngangur til hins eilífa lífsins, sem er hin sameiginlega náðargjöf guðs vors föðurs til vor allra í drottni vorum Jesú Kristi. Eilíflega lofaður og vegsamaður sè vor himneski faðir, sem blandar ætíð nokkru af hinni sætustu svölun í hvern sorgarbikar, sem lætur hinn blíða engil vonarinnar gleðja af oss með brosi sínu, þegar dauðinn hrellir oss með aðför sinni. Já, eilífar þakkir sèu guði vorum föður, sem hefur gefið oss sigurinn fyrir Jesúm Krist.

Eilífar þakkir sèu guði vorum föður, sem hefur gefið anda þessa vors framliðna bróður sigurinn fyrir Jesúm Krist. Það er ekki langt á að minnast, elskanlegir, að vèr stóðum hèr og horfðum á, að vísu með hryggð, en þó undrunarblöndnum unaði, á hið hinnsta stríð þessarar drottins hetju. Vèr horfðum á það með hryggð, því að hann sagði oss fyrir með berum orðum: að innan lítils tíma mundum vèr ekki sjá sig, og flest einkennin bentu oss á, að svo mundi verða. Hvað var þá eðlilegra, en að sverð sorgarinnar nísti hjarta hennar, sem hafði verið sameinað honum með böndum hinnar hreinustu og heitustu ástar, sem ávallt höfðu styrkzt betur og innilegar nú þegar í fulla 5 tugi ára. Slík bönd verða ekki slitin án sárasta harms, sem örfast með fram af innilegri samlíðun ástvinarins í harmkvælum hins deyjandi ástvinar. Sönn hryggð þrísti og fast að hjarta hans elskandi sonar, sem enn nú

langaði til að njóta um tíma ánægju af samvist hans og kærleiks-atlotum, sem enn nú langaði til að rækja með sonarlegri alúð skyldur sínar við hjartkæran föður. Allir nærstaddir horfðu með hryggð og döprum huga fram á burtför þessa vors vinar, en vèr horfðum líka á hana með undrunarblöndnum unaði yfir því, hvað afl líkamans, í svo öldruðum manni, var krapt- og kjarkmikið til að afbera aðfarir dauðans í hinum þungbæru þjáningum, svo að það lèt sig ekki svo að kalla fyr en allt í einu; yfir því, hvað afl andans var stillt og rósamt og þolið og trúgott og þrekmikið til að heyja einvígið við hinn síðasta óvin. Hinn framliðni horfði með skærri trúarsjón sálar sinnar á burtför sína til föðursins, hvers miskunarríku forsjón hann fól sig í Jesú nafni hátt og í hljóði, og styrkti sig í sameiningunni við drottinn sinn með nautn hinnar heilögu kvöldmáltíðar.

það er að vísu sorgblönduð, en þó sönn unan að vera sjónarvottur að slíkri burtför úr heiminum, og þess unaðarlegra er það, þegar æfi hins burtkallaða hefur verið bæði löng, heiðarleg og nytsöm. Og svo var vissulega æfi hins heiðursverða prestaöldungs, sem hèr liggur lík. það á ekki í raun rèttri vel við að færa rök að slíku nú þegar, þau munu síðar verða talin fram; en eg leyfi mèr samt að víkja á það, að hèr hvílir sá, sem var einn meðal hinna kjarkmestu Íslands sona, einn meðal hinna atorkusömustu presta, einn meðal hinna lángefnari og kynsælli manna, einn hinn hjálpfúsasti og hjartabezti fèlagsbróðir, ástúðlegasti ektamaki, umhyggju-

samasti faðir, bezti húsfaðir. Nú er hann sofnaður sætt í drottni, og hefur fengið sæla hvíld eptir lengi og vel unnið lífsins starf.

Stundin er þegar komin, að hinn framliðni flytjist burt úr húsum hans heittelskandi sonar. Í þessum húsunum hafði hann dvalið nokkuð á annað ár, og notið þar hinnar hollustu aðstoðar og alúðlegustu aðhjúkrunar af syni sínum og tengdadóttur, hverra ánægja það var og kærasta ástundan, að gjöra honum lífið sem lèttbærast og ánægjusamast. Hve ununarsamlegt verður það nú yður öllum hans ástbundnustu vandamönnum að þakka drottni fyrir það, að þèr gátuð leyst svo heiðarlega af hendi verk skyldunnar við yðvarn ástvin, og lètuð ekkert það ábresta, er í mannlegu valdi stóð, til að lina helsóttina, og lètta henni, hefði þess verið kostur; en herra lífsins og dauðans hafði svo ákvarðað, að hèr skyldi hann hvíldina hljóta. Nú skal hann því berast í það húsið, sem helgað er hans himneska föður. Í húsi drottins naut hann, sem hirðir hans hjarðar, hinna sælustu stunda; þetta húsið sè líka hið síðasta, er veitir viðtöku hans jarðnesku leyfum, og hvaðan þær eiga að berast í hið helgaða skaut jarðarinnar til rósamrar hvíldar í von vegsamlegrar upprisu. En áður en út er hafið, vil eg ávarpa yður hinni síðustu kveðju fyrir hönd hins framliðna.

Lifið í friði drottins, þèr heimilisfólk á þessu heimili, allt hið góða og ástúðlega, er þèr auðsýnduð hinum framliðna, umbunist yður af honum, sem ekkert góðverk lætur ólaunað.

Lifið í friði drottins, þèr heiðvirðu menn, sem hingað eruð kvaddir til að styrkja að hinum síðustu skyldustörfum við hinn framliðna. Hafið þökk fyrir alla þá alúð, er þèr lètuð honum í tè. Drottinn gefi að útför yðar af heiminum verði sannkristileg og sómasamleg.

Lifið í friði drottins, þèr háttvirtu embættisbræður hins framliðna. Hljótið blíðustu ástarþakkir fyrir skemmtilegt viðmót og kærleiksrík atlot á hinni skömmu samleið. Drottinn farsæli og blessi árangurinn af yðar andlegu störfum, og styrki yður í því, að gegna yðar vandamiklu köllun með dyggð og drottins hollustu.

Þú mynd[1], sem hangir gagnvart þessu dökkva herbergi, og mænir rètt sem saknaðar- og vonar augum til þess; þú mynd hans ungdómsvinar, tillit mitt til þín hrífur mig nú ósjálfrátt til að minnast þessa hans ástvinar, til að flytja honum í andanum andans kveðju framliðins vinar, kveðju kærleikans fyrir hina óslítanlegu vinatryggð, sem var svo hrein og tilgjörðarlaus; kveðju vonarinnar, hinnar inndællustu vonar, að innan lítils tíma munu þeir sjást aptur, og þá munu þeir fagna þar, sem enginn vinaskilnaður verður framar, og þann fögnuð skal enginn frá þeim taka.

Lifið í friði drottins, þèr hans elskuðu afkvæmi og tengdafólk. Náð og blessun drottins hvíli yfir

---

1) Mynd herra biskups Á. Helgasonar. Sèra Jón sál. og herra Árni voru aldavinir. Til merkis um það, er meðal annars, að hann fèkk 3 brèf frá biskupi í banalegu sinni.

yður og farsæli alla yðar afkomendur lið úr lið í í þúsund liðu. Sèr í lagi kveð eg yður föðurlegri blessunaróska kveðju, þèr hans hjartelskandi sonur, þèr hans ástúðlega tengdadóttir. Hinn einskæri kærleikurinn umbuni yður af náð sinni alla þá ástúðlegu umönnun, nærfærnu aðhjúkrun, sonar- og dótturlegu atlot, er hinn framliðni naut af yðar hálfu. Drottinn láti á yður rætast þau fyrirheitin, er hann hefur gefið hinum góðu börnunum, og láti yður með hjartans unaði finna, hve inndælt það er, að fullnægja hinum helgustu skyldum lífsins, og meðtaka velþóknan drottins í staðinn.

Og þèr hans sártsyrgjandi ekkja, þèr, sem nú þegar upp í hálfa öld hafið verið hans ástúðlegasta og aðstoðarbezta meðhjálp í lífinu; þèr, sem hafið svo heiðarlega og með einstakri snilld bundið enda á það heitið, er þèr upphaflega unnuð þessum yðar nú andaða ástvin; — hvílík skyldi vera sú kveðjan, er eg ætti á þessari skilnaðarstundu að flytja yður? Mig brestur tungutak til að mæla hana fram; eg get einungis sagt: að það sè þakklætiskveðja þankanum dýpri, það sè kærleikskveðja hjartanu heitari, það sè blessunaróska-kveðja frá blíðheimi sprottin, það sè slík andleg ástarkveðja, sem hin sæla önd getur framast flutt þeim ástfólgna ektamaka, sem eptir þreyir.

Sæli meðbróðir, vèr sameinum vorar hreinu og hjartkærustu óskir, óskir þakklætis, kærleiks og blessunar, að þær fylgi þínum framliðna líkama hèðan; já, vèr sendum þær á eptir þínum frelsaða anda til

friðarins heimkynna. Náð og blessun drottins krýni öndu þína heiðri og vegsemd í hásölum dýrðarinnar. Náð og blessun drottins sè með yður öllum nú og að eilífu, sú sè hin síðasta ósk hins framliðna til yðar allra. Amen, í Jesú nafni, Amen.

---

Sungið: úr líkstofu til sáluhliðs:
25. Passíusálmur 10.—14. v.
— — úr sáluhliði í kirkju:
2. Passíusálmur 7. v.
— — í kirkju:
Sálmabók Nr. 223.

---

2.

## LÍKRÆÐA,

flutt af prófasti sèra þorleifi Jónssyni í Hvammi.

---

Bæn.

Vèr tilbiðjum þig alstaðarnálægi, mikli og voldugi guð, sem ræður lífi og dauða vorum mannanna! Vèr biðjum þig, að þú föðurlega bendir oss, að hugsa um vorn afgang, því vèr vitum ekki hvenær þú kallar oss; bendir oss að hugsa um vora endalykt, svo vèr syndgum ekki á móti þèr, heldur venjumst til þess í trúnni og kærleikanum, að lifa eptir þíns sonar Jesú Krists vors frelsara heilaga lærdómi, hans, sem hefur lífið og ódauðlegleikann í ljós leitt; því aldrei uppvekur þú oss eins alvarlega til að biðja þig að hjálpa oss í þessu mikilvæga efni, eins og þegar þeir burtkallast, sem lifað hafa í trúnni, von-

inni og kærleikanum guðrækilega, — að vèr förum og gjörum slíkt hið sama. Heyr það og bænheyr í Jesú nafni, Amen.

---

Heiðruðu og háttvirtu bræður!

þar eð mèr sjálfum, sem hniginn er á efra aldur, veitist við þetta tækifæri sú hugfró, að mæla fáein orð að skilnaði yfir moldum míns framliðna verðuga bróður og samþjóns í víngarði drottins, þess öldungsins, sem þar hefir borið hita og þunga dagsins, að minnast hèr eins af vorum verðugu kennifeðrum í kristilegri kirkju, sem verið hafa trúir erindsrekar Krists, trúir ráðsmenn í því mikla umboði, sem þeim var á hendur falið af drottni, sem verið hafa kostgæfnir og staðfastir í þeirri hans þjónustu, mestan hluta æfinnar, til endadægurs; þá koma mèr í hug orð spámannsins í Daníels spádómsbókar 12. 3. »Hinir trúföstu munu ljóma sem himingeislar, og þeir, sem mörgum hafa vísað á rèttan veg, munu skína sem stjörnur himins um aldur og æfi«.

---

»Hinir trúföstu munu ljóma sem himingeislar«. þeir, sem með trúmennsku og kostgæfni í sinni prestlegu köllun hafa verið öruggir og óþreytandi í því, að benda á veg sannleikans, iðnir og ótrauðir verkamenn í víngarði drottins frá morgni til kvöldrökkurs lífsins; þeir, sem í sannri trú, einlægum kærleika, og glaðri von hafa sýnt ávexti trúarinnar í því, að

vinna ávalt með árvekni og samvizkusemi að sínu ætlunarverki; í sannri trú, segi eg, sem byggð er á ódauðlegleika sálarinnar, og borið hefur heilnæma ávexti í þessu jarðneska lífi, sem ekki fylgja sjálfbyrgingsskap heimsins, heldur finna, að þekking sín er ónóg, og vita, að speki hinna vitrustu verður að heimsku, ef hún er án trúar, þegar á hana skín ljós hins algjörða sannleika, sem ljómar jafnskírt fyrir öllum.

Í sannri trú — sagði eg, — sem ekki hylur sig í hjúpi hræsninnar, heldur kemur ætíð fyrir eins, í sameiningu við þann, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið, svo hún fyrst veikir, og svo sigrar afl hins spillta eðlis, og tekur burt farartálman til himinsins, með því að gjöra lífsins böl lèttbært og biturleika dauðans að sætri unun og gleðilegum inngangi til lífsins.

Þeir sem — sagði eg — í einlægum kærleika sýna jafnframt hið æðsta frumafl trúarinnar í því að hafa vísað mörgum á rèttan veg; því andi kærleikans er að Krists vitni hin einasta rót, sem allar kristilegar dyggðir spretta upp af, því sá sem er stöðugur í kærleikanum, hann er í guði og guð í honum.

Hví munu þá ekki þessir »skína sem himinsins stjörnur um aldur og æfi«, þegar þeir hafa lifað og dáið í trúnni og kærleikanum, með hinni glöðu von, sem stutt hefur trúna í því, að hin guðlegu fyrirheiti uppfyllist, svo það sem byrjað er í trúnni, er framhaldið í kærleikanum, og endað í voninni,

— hví munu þessir ekki vera fullvissir eptirkomandi gæða fyrir Krists verðskuldan.

Að þetta veiti hinum trúaða þolinmæði í þrautum, endurnæringu í veikindum, hugsvölun í dauða, er efalaust; því þrautir lífsins verða þá ekkert að reikna móti hinu himneska, heldur blasir himininn við honum í voninni, svo hann sjái við ljós trúarinnar þann stað, sem frelsarinn hefur öllum trúuðum fyrir búið, þann stað, til hvers hann er á undan oss farinn, og vèr eigum á eptir að fylgja.

Þessi vor glaða von getur ekki brugðizt, því heilagur andi fyrir upprisu Krists er pantur arfleifðar vorrar, þangað til lausnin kemur.

---

Nú er lausnin komin, gleðileg lausn fyrir þessum vorum merkilega Krists þènara og júbilkennara sèra Jóni Matthíassyni, sem nú hvílir framliðinn innan þessarar líkkistu. Það hefur í áminnstum orðum mínum vakað fyrir mèr, sem eg hafði bæði um hann heyrt, og eg gat aptur þekkt af okkar skammvinnu samfylgd hèrna megin; svo eg þarf ekki nákvæmrar heimfærslu þeirra fyrir yðar kærleika. En það verður ekki sannara um hann sagt, nè hans minnzt á annan veg, en að hann hafi verið trúr umboðsmaður Krists í hans ríki hèr á jörðu, í því að vísa mörgum á rèttan veg, í sannri trú, í einlægum kærleika og glaðri von. Að hann hafi verið þeim hæfilegleikum búinn, gáfum, hreinskilni, einurð og fúsum vilja, sem hlýtur að lýsa frá innra manni hins trúrækna Krists þènara, var vafalaust; því hann var

svo innlífaður sínu ætlunarverki, sinni köllun, með staðfastri trúfesti og árvekni. Guðs heilaga orð og andi sýndi sig svo gróðursett í hjarta hans til að áminna og ráðleggja, vandlæta og sannfæra; hans unun hafði verið að fræða fáfróða, að aðvara villuráfandi, hugga hrellda, styðja reikandi, og reisa fallna á fætur. þessari lífs stefnu og lífs yndi lýsti hann sjálfur fyrir mèr, ávalt minnugur frelsarans orða: »fyrirgefið, svo mun yður fyrirgefið verða«, með því hans vanalega orðtæki: »minn ef hrasar breyskur bróðir, bæta lát mig úr með góðu«.

Ekki lèt hann bifast fyrir andköstum skynsemistrúarinnar, eins og þó átti sèr stað hjá allmörgum framan af prestsþjónustu hans, heldur var hann bjargfastur í vorri evangelisku kristilegu trú, því hans framganga var í bróðurlegu lítillæti og einlægri trú og kærleika, við hvern sem var að skipta. Ekki gat hann hryggð litið á neinum í daglegu lífi, svo hann ekki hugsvalaði í orði og verki. Hans unun var að gleðja vini og gesti, þurfandi og bágstadda, eg tala ekki um skyldurækt hans til ástvina sinna.

Margt mátti hann — eins og flestir — örðugt reyna um æfina; en bæði hafði guð gefið honum mikinn sálar-styrk, og öflgan styrktar-engil í stríði forlaga, þar sem kona hans er, orðlagt kvennval, sem á álíka háum aldri og hann var, nú með söknuði hans, þreyir að guðs vilja og þráir sinn lausnartíma og samvistir í sælunnar bústöðum sinna hèðan burtförnu ástvina.

Hún sparði hvorki fyrst nè seinast sína ná-

kvæmu og óþreyttu aðhjúkrun og aðstoð við sitt ektahjarta, og nú seinast langt framyfir krapta hennar.

En, þó hann mætti margt örðugt reyna um æfi sína — eins og á var vikið — auðnaðist honum eins líka mörg gleði um æfina, t. a. m. sú, er fagnaðarríkust verður á elliárunum, barnalánið; að vita af góðum og uppbyggilegum börnum, hverju í sinni stètt, og líta mannvænleg barnabörn á siðsamlegri lífsstefnu.

Æfiatriði hins framliðna eru þessi hin helztu[1]:

.... Já, eg vildi taka það glöggar fram, að hann með konu sinni flutti hingað að Hjarðarholti snemma sumars 1858, og var þar til dánardægurs í miklu eptirlæti og ástúðlegum sonarfaðmlögum, svo fágætt mun vera að hitta aðra eins sonarást og umhyggju fyrir ánægju og þörfum foreldra, eins og hann sýndi þeim.

Sèra Jón, sem verið hafði heilsugóður og hreystimaður, tók þungar sóttir með köflum bæði seinast í Arnarbæli, og eptir að hann fluttist hingað; lá hann þunga sóttarlegu á næstliðnu vori, svo flestir hugðu, að mundi draga hann til bana; en hann hresstist svo aptur með sumrinu, að hann gat haft skemmtihreifingar á hesti, og varð eptir aldri hraustur að sjá. Prèdikaði hann með fullu andlegu fjöri, þá fimmtugur kennifaðir, í kirkju sonar síns.

Banalega hans hófst 28. f. m., og voru þá engar tilraunir sparaðar til að lètta hans þungu sótt og

---

1) Hin merkustu atriði voru hèr höfð upp, eptir æfiágripi hins framliðna, sem prentað er að framan.

hlutaðeigandi læknir sóktur til hans; linaði honum nokkuð fyrst, en brátt þyngdi honum aptur, svo hann með konu sinni 3. þ. m. — eptir sjálfs hans ráðstöfun — tók þjónustu heilagrar kvöldmáltíðar af sèra Guðmundi á Kvennabrekku; hinn 9. s. m. tók sonur hans hann til bænar í kirkju sinni, en þann 11. s. m. andaðist hann.

---

Það var almenningsrómur hèr fyrrum af Vestfjörðum, að sèra Jón væri gáfumaður, en framúrskarandi stundull og árvakur í sinni embættisþjónustu, þegar hann þjónaði í senn bæði Eyrar- og Aðalvíkurbrauðum. Eins fóru margar sögur þaðan af hreysti hans, þrekvirki og sjómennsku, því hann var þar formaður, áður en hann tók prestsvígslu, svo það er þekkjanlegt á öllu, sem um hann hefur heyrzt: að hið gamla Norðmannablóð hafi flotið ómeingað í æðum hans, að hreysti, hugrekki og eðallund.

Styrkvustu öflin alsherjarlögum
er hinum sömu í alheimi háð,
ávallt sólbjörtum inndælum dögum
að una sífellt enginn á ráð;
það sem vèr áttum, og glaðir nutum,
óðfleyg breyting hrífur oss frá.
Að alföðurs ráði eitt sinn vèr hlutum,
á bak saknandi opt megum sjá.

---

Þeir, sem þannig hafa verið trúfastir og óþreytandi í köllun sinni til andlegra og líkamlegra heilla

fósturjörð sinni, vísað mörgum á rèttan veg — enda sem hrópandi rödd í eyðimörku á stundum — ekki einungis með kenningum, heldur sem fyrirmynd í fögrum ávöxtum trúarinnar og kærleikans; þessir ljóma sem himingeislar, og þessara nöfnum á sagan að halda á lopti, svo þeirra minning skíni sem stjörnur himins um aldur og æfi.

Vèr stöndum hèr, ástvinir og vinir hryggvir við líkkistu vors framliðna, í sáluhjálplegri von syrgjandi sem kristnir, en ekki sem þeir, er enga von hafa. Vèr þökkum guði, að hann hefir vel og lengi látið þennan vorn samþjón, sem nú er inngenginn í hans fögnuð ,vinna í ríki síns sonar. Geymum minningu hans í þakklátum hjörtum og í heiðri. Láttu, drottinn! vaka fyrir oss hans dæmi og fyrirmynd, hvers í sínum verkahring, og vonglaða framganga í voru ætlunarverki, að vèr fáum gjört það í guði, þangað til sagt verður: »gjör reikningsskap þinnar ráðsmennsku«; en þóknist þèr brátt að kalla oss hèðan, þá færumst ekki undan þinni kallandi raust, sem er kærleikans, af því vèr vitum, á hvern vèr trúum, á þig drottinn Jesú! og munum það, sem þú hefir sagt: »Að ef vèr fengjum trúnni haldið, skyldum vèr líta dýrð guðs«. Amen.

Hèr við skiljumst
og hittast munum
á fegins-degi fýra,
drottinn vor gefi dauðum ró,
hinum líkn er lifa.

---

3.

## LÍKRÆÐA,

flutt af séra Benedikt E. Gudmundsen á Breiðabólstað á Skógarströnd.

---

### Bæn.

Dásamlegur ert þú drottinn vor guð í öllum þínum verkum! Allt, sem þú skapaðir, leiðir þú til fullkomnunar, hvað eptir sínu eðli; þú kallar manninn til lífsins, og eins og þú gefur hans líkama vöxt og viðgang, svo gefur þú einnig hans sálargáfum þroska og framför. Þá, sem trúlega halda sèr til þín, blessar þú svo, að þeir megna að framkvæma mikla og góða hluti, því þinn kraptur er í breyskum máttugur, þú lætur þeirra fögru dæmi skína oss til eptirbreytnis, og gefur þeim sælan sigur yfir sorg, synd og dauða. Amen.

---

Jóhannes guðspjallamaður getur þess í 1. kap. guðspjalls síns, 48. v., að þegar Jesús sá Nathanael koma til sín, hafi hann sagt: »Sjá! þessi er sannur Ísraelíti, í hverjum engin svik eru fundin! Jesús gat með sanni vitnað þetta um Nathanael strax og hann leit hann augum; því fyrir hans alskyggna auga var eins bert innra ástand mannsins og hugsanir hjartans, eins og hið ytra skapnaðarlag líkamans. Vèr skammsýnir menn þar á móti sjáum að vísu hina ytri mynd líkama mannsins, og getum, ef til vill, í vonirnar af þeim ytri svip, hvernig þeim innra

manni muni háttað; en það er ekki nema óviss gáta, sem enginn má treysta. Hitt er áreiðanlegt, sem drottinn vor kenndi: »Af þeirra ávöxtum skuluð þèr þekkja þá; því spillt trè getur ei borið góðan ávöxt, og gott trè getur ei borið vondan ávöxt«. Vildum vèr því segja um einhvern mann af þjóð vorri, er oss bæri í fyrsta sinn fyrir sjónir, líkt og Jesús sagði um Nathanael: þessi er sannur Íslendingur, í hverjum engin svik eru fundin; þá væri það ómerkur dómur, hversu mikið gott sem oss virtist svipur hans og ytri ásýnd boða. Þar á móti þegar vèr þekkjum líf mannsins af eigin reynslu, annara sögn og, einkum af verkum hans, um langan aldur, og þetta allt vottar trúmennsku og falslausa hreinskilni hjartans, þá er oss óhætt að gefa honum líkan vitnisburð og Jesús gaf Nathanael, að taka oss í munn orð drottins vors, og segja: þessi er sannur Íslendingur, í hverjum engin svik eru fundin. En nær skyldum vèr geta sagt þetta með fullkomnari sannfæringu, en yfir líkkistu þessa frómhjartaða framliðna; því hèr erum vèr fyrst komnir að fullri raun um, hver þessi maðurinn var. Eg vil því tala þessi orð, svo sem í nafni allra vor: sjá, hèr hvílir í þessari líkkistu andvana líkami Jóns prests Matthíassonar, er var sannur Íslendingur, í hverjum engin svik voru fundin. Ekki efa eg, að allir menn, er þekktu, verði mèr samdóma í því, að fyrnefndur öldungur bæði hafi verið sannur Íslendingur, ɔ: einn af þeim trúföstu, einörðu, hugprúðu og þrekmiklu Íslendingum, og að í honum hafi engin svik verið fundin;

en vera má að einhver hugsi: það er ekki mikið mælt, þó ei finnist svik í manninum; en í þeirri meiningu mun drottinn vor hafa farið áminnstum orðum um Nathanael, að honum þótti hann hafa þá kosti, sem hann vildi að allir Gyðingar hefðu til að bera, þegar hann kallar hann sannan Ísraelíta, þ. e. eins skapi farinn, eins og hver Ísraelíti ætti að vera, eða eins og þeir góðu, guði þóknanlegu menn höfðu verið, er fyrrum lifðu meðal Ísraelslýðs; því mun og enginn skynsamur maður, sem sannleikann elskar, mótmæla, að frómt og falslaust hjarta, í hverju engin svik eru fundin, sè hinn bezti grundvöllur allra dyggða, frjófsamasti akur til að fóstra og næra alla góða ávexti; því er betra að bera þennan vitnisburð allra góðra og sanngjarnra til grafarinnar: að í manninum hafi engin svik verið fundin, en fagra gullkrossa og tignarmerki, ef hann brestur.

Að eiga þennan vitnisburð í samvizku sinni, hjá drottni guði sínum og öllum góðum sanngjörnum mönnum, er til þekkja, er hinn bezti og heilladrjúgasti auður; en hversu miklir og útbreiddir ávextirnir verða, þó grundvöllurinn sè góður, er mjög undir því komið, með hverju sálar- og líkamsþreki guð hefur útbúið manninn, og til hvers hann brúkar hann í heiminum.

Þegar góður guð hefur útbúið þann mann, sem geymir prettalaust, trúfast hjarta í sínu brjósti, með miklu sálar- og líkamsþreki, og sett hann í þá stöðu, í hverri honum gefst kostur á, að framkvæma mikla hluti, þá rætast á slíkum manni orð Daníels spá-

manns, er hann tekur svo til orða í sinnar spádómsbókar 12. kap. 3. v.: »þeir trúföstu munu ljóma sem himingeislar, og þeir, sem mörgum hafa vísað á rèttan veg, munu skína sem stjörnur um aldur og æfi«.

Sèra Jón sál. Matthíasson hafði verið fríðleiksmaður á yngri árum; af ásjónu hans skein hreinlyndi og einurð, sem þó blandaðist með viðkvæmni og blíðu; afburðarmaður var hann að afli, snarræði og öllu líkams þreki. þeir, sem að nokkru hafa heyrt hans getið á yngri árum, minnast þess vel, að hann var bráðgjör í æsku, fyrr fullkominn að afli og áræði en vetratali, enda gekk hann allt frá 16 ára aldri, jafnt hinum röskustu mönnum í allsháttað erfiði bæði til sjós og lands, því varla þurfti honum hugar að frýja, hvað sem reyna skyldi. þó hann væri snemma til mennta settur, vann hann með atorku á sumrum, og lagði það ei niður, þó hann hefði aflokið skólalærdómi. Hann þótti þá hinn fyrsti og öruggasti formaður í sínu byggðarlagi. þó hann bráðum fengi lítið prestakall, mun hann hafa orðið að sýna sama þrótt, sömu hugprýði og karlmennskustörf fyrstu ár búskapar síns, því brátt gjörðist hann barnmargur, átti lítið fè, og hafði lítil embættislaun. En hans svikalausa, trúlynda hugarfar, sameinað líkamshreysti og sálarþreki, vann sigur, með guðs aðstoð á öllum þrautum og erfiði. Hans bústörf voru því ætíð í góðri reglu, svo hann mátti jafnan telja með hinum beztu búmönnum. Bygði hann upp og bætti stórum þau prestaköll, er honum voru veitt, jafnvel

þó hann alla æfi væri sá gestrisnismaður, að hann í þeirri dyggð trautt átti sinn jafningja, því það var hans lífs yndi, að gleðja og hressa, að metta hungraða, gefa þyrstum að drekka, og bæta þörf þeirra, er hann heimsóttu. Þetta munu allir sanna, er á hans heimili komu seint eður snemma alla stund meðan hann átti húsum að ráða, og hið sama lundernið vottaði sig hjá honum til banadægurs.

Sín mörgu börn uppól hann öll til skynsamlegs dugnaðar, þrifnaðar og reglusemis, svo þau gæti orðið sómamenn í sínu standi, og gaf guð honum, að hann, eins í því og öðru, var sannur hamingjumaður. Fáir munu þeir, sem á vorum dögum hefur auðnazt að eiga og uppala fyrir föðurlandið jafnmarga dugandis syni, í flestum greinum frábæra, hvern í sínu standi. En þegar þess er getið og margs annars, er heiðrar minningu vors vinar, ber þess að minnast, að guð gaf honum strax á ungum aldri góða, trúfasta meðhjálp, þá reglusömu, góðhjörtuðu, og óþreytanlegu konu, sem allt vann honum til heilla og sóma, og kemur það þó hvergi meir fram en í barnauppeldinu; hún veik ei heldur frá hans banasæng, og fylgir nú líki hans til síðustu hvíldar. Þeir, sem niður-sá með tárum í dyggðarinnar og tryggðarinnar þjónustu, munu uppskera með fögnuði í dýrðinni hjá guði!

Þó sèra Jón sál. væri stakur atorkumaður, öruggur til allra starfa strax frá æskualdri, og allt af, meðan þörf hans krafði, gleymdi hann þó ekki að efla og næra sína andlegu krapta. Snemma var

hann til mennta settur, og ungur kom hann í skóla; en þó hann væri bæði ungur og fjörmikill, lagði hann svo mikla alúð á lærdómsmenntir, og sýndi ei miður kapp og fylgi í því, að vera hinn fremsti, iðnasti og ötulasti af sínum lagsbræðrum, í því, að nema það, sem nema skyldi, en í líkams-erfiði og atorku, að hann var úr skólanum útskrifaður eptir 5 ára tíma með hinum bezta vitnisburði. Síðan stundaði hann í nokkur ár jafnsíðis atorku og lærdóm, en var prestvígður fyrri en hann hafði aldur til að lögum, með biskups-leyfi; þó hann þá ætti erfiða stöðu, sem eg fyr áminntist, gleymdi hann aldrei að rækja lærdómsmenntir, lesa nytsamar bækur, og leggja alúð á sínar kenningar; þessu hèlt hann áfram alla sína löngu embættistíð, og þó hann væri búsýslumaður mikill, lèt hann ætíð sínar embættisskyldur hafa fyrirrúmið, en vann að hinni sýslan sinni í hjáverkum, hann náði og því alræmi, að hann væri einn af þeim merkustu klerkum, og þó mèr yrði ei þess auðið að heyra hann prèdika, hef eg þó sèð á prenti snillilegan vott þess, að hann var ágætur ræðumaður.

Ekki þekkti eg sèra Jón sál. að sjón, fyr en hann var orðinn roskinn maður, og engan nákvæman kunningsskap eða umgengni hafði eg við hann fyr en á hans síðustu árum; þó gat mèr ei dulizt, að maðurinn hafði rækt menntir, bæði málfræði og sagnafræði, og mest kennimannleg vísindi um langan aldur. En einkum fannst mèr til hans fróma, kærleiksríka, kristilega hugarfars, sem var orðið svo æft í því, að stjórna sínum annars áköfu, þrekmiklu

geðsmunum. Af því skil eg, að ei mun of sögum sagt, að honum hafi verið einkar vel gefið að semja milli manna og sætta sundurþykka, hvern starfa hann hafði og mjög lengi á hendi með sóma.

Af því fáa, sem eg hefi hèr talið, vona eg að það sè þó auðsèð, að dæmi þessa drottins trúa þjóns, hvers andvana lík liggur í líkkistu þessari, og verk hans, að honum liðnum, ljóma sem fagrir himingeislar. Augljóst er það, að hann vísaði mörgum á rèttan veg, með snjöllum sannleikskenningum, fögrum friðarboðskap, og sáttgjarnlegum fortölum. Honum var mikið gefið, enda neytti hann þess trúlega. Hans minning er því sem fögur stjarna meðal Íslands sona, er skín eptir hann liðinn, og mun fyrir hans aðstoð, sem er byrjari og fullkomnari alls góðs, skína meðal hans afkvæmis, meðan land byggist, og þeirra, er hann vísaði á rèttan veg, um aldur og æfi. Honum var mikið gefið, en hann kannaðist við og eignaði sèr orð postulans: »af guðs náð er eg, það eg er«, og hans náð fylgdi honum til síðasta andartaks og færði mikinn ávöxt.

Hann lifði sem hetja, og dó sem hetja Krists í trú og von. Nú ljómar hann sem fögur stjarna í flokki Krists útvöldu hetja, um aldur og að eilífu. Amen.

---

4.

## SONARKVEÐJA,

flutt í nafni séra Páls Jónssonar Matthiesen, af séra Guðmundi Einarssyni á Kvennabrekku.

---

Náð og friður vors himneska föður sè með yður öllum í Jesú nafni. Amen.

Elskanlegir! leyfið mèr að tala fáein orð, áður en þetta lík er borið út til sinnar hvíldar í helguðum guðs barna reiti. Hèr á meðal vor er hjarta, sem berst þungan; hèr er sál, sem gagntekin er af djúpri hryggð; hèr er sonur, sem langaði mjög til að minnast að hinnsta skilnaði við sinn hjartkærasta föður, með sonarlegri kærleikskveðju; hann langaði og svo til að sameina sinni kveðju, kveðju ástfólginna systkina nálægra sem fjarlægra. En hann vissi ekki nema hryggðin mundi varna sèr máls og harmurinn hepta sín orð. Þess vegna hefir hinn harmþrungni sonur mælzt til þess af mèr, að flytja fyrir sína hönd ástvinakveðjuna hinum framliðna föður að hinnsta skilnaði. Bróðernisskyldan býður mèr að gjöra tilraunina, þó að eg finni vanmátt minn til þess; eg finn, hve ófær eg em til þess, að geta sameinað hugsun mína hugsun ástvinanna, eða fundið verðug orð, sem við eiga. Bótin er, að þèr, harmandi vinir, getið með sjálfum yður framborið það andans mál í hjörtum yðar, sem hverjum er ljúfast og tilfinningum hans samboðnast, meðan eg í nafni míns elskulega embættisbróður reyni til að vinna að þeirri

bróðernisskyldunni, að kveðja í hinnsta sinni, fyrir hans hönd, þenna vorn framliðna samþjón í drottni.

Hið fyrsta sonarlega skilnaðarávarpið sè þá fólgið í: þakklætinu. Ó hversu margt hefir ekki vel uppfræddur sonur að þakka ástríkum föður! Þakklætis tilfinningarnar við hinn jarðneska föðurinn ganga næst þakklætisskyldunum við vorn himneska föður. Fyrir sálarsjón þessa elskandi sonar stendur nú skírt afmálað, hversu að hann, sem hèr liggur lík, ól föðurlega önn fyrir sèr í barnæskunni, efldi framfarir sínar og menntun á ungdómsárunum, vildi sèr allt hið bezta, og vann að því á fullorðins aldrinum, já, hèlt sinni föðurlegu kærleiks ástúð ófölskaðri í andlátið fram. Í nafni harmþrungins sonar flyt eg þèr, þú framliðni meðbróðir, hina hjartfólgnustu þakklætiskveðju fyrir allar hinar mörgu og miklu föðurlegu velgjörðir, sem þú veittir honum.

Hið annað sonarlega skilnaðarávarpið sè fólgið í innilegustu: fyrirgefningarbón. Skyldur barnanna við foreldrana eru svo háleitar, að enda hin beztu börn geta ekki fullnægt þeim, sem skyldi. Það er ekki auðunnið verk, að greiða hina gömlu skuldina og fullnægja 4. boðorðinu. Þessi sonurinn finnur líka til þess með sárum trega, að sèr hafi margt áfátt orðið af vanmætti, af athugaleysi, af þekkingarskorti, enda þótt sú meðvitundin gleðji hann, að hann hafi aldrei viljað móðga sinn elskaða föður af ásettu ráði; að hann hafi hvorki hlíft tíð sinni, kröptum sínum nè efnum til að styrkja hann og gjöra honum til vilja. Allt um það kannast hann

við ófullkomlegleika sinn og skort á fullnægjugjörð skyldna sinna; þetta aflar honum nú hryggðar og hann vildi alls hugar feginn, að slíkt væri ekki að finna. Sönn tregatár frá hvörmum angráðs sonar, er nú væta moldir framliðins föður sèu því talandi vottur um hjartheita fyrirgefningarbón.

Hið þriðja sonarlega skilnaðarávarpið sè: vonarfull blessunaróska kveðja. Þú himinsprottna von! vert þú enn af nýju velkomin í harmþrungin hjörtu; lát þú þína lífgjafargeisla brjótast enn af nýju svo fagurlega í þeim sorgarskýjum, sem hèr hafa dregizt saman, að hinn guðfagri friðar- og sigurhrössbogi myndist í þeim, á hverjum stendur ritað: »dauðinn er uppsvelgdur í sigur«. Með þessa ununarríku sjón fyrir augunum flýtur nú blítt blessunaróska ávarp frá anda sonarins til anda föðursins í andanna heimkynnum, og hann grípur til þeirra blessunaróska, sem æðstar eru og hátignarfyllstar, hann grípur til hinna drottinlegu blessunarorða og mælir andans máli fyrir minn munn:

Ástkæri framliðni faðir! Drottinn blessi þínar jarðnesku leyfar og varðveiti þær í skauti jarðarinnar til vegsamlegrar upprisu; drottinn láti sitt blíða náðarauglit skína skært yfir þinni frelsuðu sálu og sè henni náðugur; drottinn upplypti sínu dýrðarauglíti yfir þína sívaxandi fullkomnun og farsæld, og gefi þèr ásamt oss öllum eilífan frið í dýrðarinnar heimkynnum.

Felum þá djúpt í foldar baðmi
framliðinn ná, sem hvílir hèr,

ástvin, úr vorum farinn faðmi;
flogin hans önd í hæðir er,
hún horfir þaðan hýr til vor,
sem harma — þessi fetum — spor.

Hún biður nú sinn blíða drottinn
blessaðan oss að veita styrk,
á oss sýna sinn ástarvottinn,
einkum þá leiðin verður myrk;
hún biður þann, sem bar sinn kross
í böli lífs að hugga oss.

Þú sem upprisan ert og lífið,
ástríki Jesú, herra minn,
í gegnum dauðans dapra kífið
dýrðar leið oss í fögnuð þinn,
og veit þar fáum vora að sjá,
sem valdið dauðans sleit oss frá.
Amen.

---

Sungið: úr kirkju og yfir gröf:
Sálmabók Nr. 225.
— — frá gröf til kirkju:
Sálmabók Nr. 231, 7—8. v.
— — í kyrkju:
Sálmabók Nr. 363.

---

5.

## GRAFSKRIPT

---

Hèr er nú kappinn
af kífs valsviði
kvaddur að kveldi
kaup til að fá;
gekk hann á mála
hjá mána stól-jöfri,
dyggur og öruggur,
dagur uns þraut —

JÓN prestur MATTHIASSON.

Hann
fæddist árið 1786,
vígðist árið 1809,
giptist árið 1810,
deyði árið 1859,
átti 12 börn, hverra 6 lifa, og mörg barnabörn

* * *

Mæla má nú sèrhver,
er mæríng þekkti,
og lítur hann látinn:
liggðu í ró!
þú barst vel hita
og þunga dagsins,

hetja sannkölluð
í hættum og neyð!

2.

Munu ei margir
meira fjöri
sálar og líkams
sæmdir en hann,
fær þess fóstur-jörð
fagrar borið
menjar, æ meðan
mannheimur sèst.

3.

Hauðurs var hann bætir
hvar sem dvaldi,
því dyggð fylgdi drenglyndi
og dugnaði greind;
Aðalvík, Eyri,
Arnarbæli,
heppnaðist öllum
að hafa þess not.

4.

Geyma hljóta gestir
glaðir og hryggvir,
máttkir og vesalir,
minningu hans,
hús stóð hans opið,
hjúkrun fram boðin
þurfandi hverjum
því sem að bar.

5.

Hvers munu megir
mannvænlegri,
og fegra bera vitni
föðurs um ást?
sèst hèr ei sannast
sögn ens vísa
gott trè ber jafnan
góðan ávöxt?

6.

Eins var hann öllum
æðri sem lægri,
raungóður hreinlyndur,
ráðhollur, trúr,
hann er því harmdauði
hjúum og niðjum,
maka sorgmæddum,
og mannvini hveim.

---

Sú fer bezt gömlum
sigurkóróna,
heiðurs þegar hærur
höfuð skreyta,
keppumst því lifa
lífi dáðríku,
að lífs heiðri menjar
lík andvana.

G. Torfason.

---

6.

## ERFILJÓÐ.

*a.*

Við andlátsfregn Jóns prests Matthíassonar.

---

Kenndu mèr að mæla
mentagyðja!
orð eptir tállausan
tryggðavininn,
verðan ljóðmæla
vandaðra betur,
enn eg einhlítur
er að flytja.

2. Hraustlegt er að hníga
í hetju sporum,
verk eptir mikil
og vörn ágæta,
honum, er hvergi —
á hæli gekk,
heldur stóð öryggur
í hættu og þrautum.

3. Vegleg var ferð Jóns
frá vöggu til grafar,
mannvalsins mikla,
Matthíassonar,
veglega vann hann
að veglegum störfum
herrans hjarðræktar
að hinnsta blundi.

4. Hefur nú hæga
hvílu búna
ættræknum arfa
eyja Garðars;
faðmar hún þann
er fornra geymdi
eðli drenglyndra
Íslendinga.

5. Trúar tók skjöldinn
traustri mundu
frómlyndur fullhugi,
framsýnn, greindur.
Var at auðunnið
áreitnis-skeytum
guðhræddum gæfurekk
geig að vinna.

6. Far og fót stöðva,
ferðamaður!
á Aðalvík, Eyri,
Arnarbæli;
þar sèrðu þreks menjar
ens þreklynda mærings
og mannástar mannvinar
móti þèr brosa.

7. Heyrir þú og heyrir,
hann er látinn,
er bjó hèr, og bætti
byggðir þessar.
Glæddi ljós gæfu
glaður veitti

hjástoð þurfendum,
hjúkrun veikum.
8. Líttu beðju hans
líttu niðja!
ræktar hans dugnaðs
og raungæðis votta;
leitaðu orðróms!
allir munu
látinn gestgjafa
góðan trega.
9. Loks fær nú lúða
limu hvílda
sannauðmjúk, sannkristin,
sannnefnd hetja;
hafinn er úr heimi
hreinskilinn, tryggur,
andinn í upphæð
til anda föðurs.
10. Drjúpi með daggar
dropa hverjum,
blessun á beð þinn
og blómi skreyti,
er næri þá hugsun
að niðjar þínir
verði þèr virðingar
varði beztur.
11. Hèr skreyttu heiðurs
hærur þínar
ljós það, er lýsti
lundu hjartgöfgri;

nú er þèr sigurkrans
settur á höfuð,
of bjartur augum
alda sona.

12. Farðu í friði
fullsæli bróðir!
fögnum, já samfögnum
friði þínum!
eygir þig andi vor
ofar skýjum
standa hjá sólar
stól-konungi.

G. Torfason.

---

*b.*

Eptir sèra Jón Matthíasson.

---

1.

Ör dauðans apald felldi
öldungur hneig til moldar,
væn gefst værðin Jóni,
vin Krists, Matthíassyni;
Sæld himna sorglaust veldur
sælla frón guðs þjóni,
heima' að himna grami,
hann þiggur fagnað tryggvan.

2.

Hèr gat hetju' að líta,
hold þá bar ofar foldu,

veglyndi veslum sýndi,
verkdyggur, Krists und' merki;
gestrisni gjörði frægstan
göfugmenni, það kennum;
hönd hans var hverjum þurfenda
hjálpargreið til reiðu.

3.

Hreinlyndur, vann tryggð vina,
vel er skartar prúðu hjarta,
hann því háleitt vinnur
hrós í dýrðarljósi;
hann, sem hýsti gesti,
og hjúkrun veitti sjúkum,
ítur um eilífð hlýtur
unaðsnægð hjá guði.

Andrès Hjaltason.

---

